# Jomsvikinga
# Saga.

útgefin eptir

gamalli kálfskinnsbók

í hinu konúngliga bókasafni í Stockhólmi.

Kaupmannahöfn.
Prentuð hjá *Harðvígi Friðriki Popp.*

1824.

## Hèr hefr upp Jómsvíkínga Savgu :

Maðr er nefndr Tóki i Danmörku, í hèraði því, er á Fjóni heitir. Þórvavr hèt kona hans. Hann átti [þrjá [1]] sonu: Áki hèt inn ellri, enn annarr Pálnir, hinn [ýngsti [2]] hèt Fjölnir, hann var frilluson. Tóki var þá gamall, ok tók hann sótt ok andaðiz, litlo síðarr Þórvavr kona hans; tóku þeir brœðr arf, Áki ok Pálnir; þá spurði Fjölnir brœðr sína, hvat þeir ætlaði honum af fè. Þeir qvoðuz mundu miðla honum þriðjúng af lausa fè, enn ecki af lavndum, ok þóttuz þeir þó gera hans luta góðan; enn hann mælti til þriðjúngs allz feár, sem hann væri arfgeingr, enn þeir brœðr hans nítto því. Fjölnir lèt sèr illa lika, ok ferr í brott, ok til Haraldz konúngs, ok gerðiz hirðmaðr hans ok ráðunautr. Hann var vitr maðr ok ráðugr ok illgjarn. Hann tekr nú ok rœgir Áka bróður sinn við konúng.

[1]) *þannig A, F, J;* tvo, *R.* [2]) *þannig A, F, J;* ellzti, *R.*

Eingi maðr í þau mund ótíginn var meiri fyrir sèr í Danmörk enn Áki Tókason. Hann lá hvert sumar í hernaði, ok hafði nær ávallt sigr. Fjölnir sagði svâ Haraldi konúngi, at hann mundi eigi þickja einn konúngr yfir Danmörk meðan Áki Tókason væri uppi. Svâ gat hann umtalit fyrir konúngi, at eigi var óhætt milli þeirra konúngs ok Áka. Áki átti friðland ok gott vinfeingi við Óttar jarl í Gautlandi, ok þángat fór hann eitt sinn at heimboði, ok hafði tvö skip ok hundrað manna, ok allir vel búnir at vâpnum ok klæðum. Þar var hann nockura hríð, ok þá Áki gjafar góðar at skilnaði af jarli, fór aptr síðan. Þetta fregnir Haraldr konúngr, at Áki var or landi farinn; hann lætr búa tíu skip ok fimm hundruð manna, ok bað þá fara ok sæta því, er hann færi aptr, ok taka hann af lífi ok allt föruneyti hans. Konúngs menn fóru síðan ok hèldu njósnum til um ferðir Áka, var þat hœgt, því at þeir kunnu ei at varaz þetta. Þar komu konúngs menn at þeim með her þenna á óvart, ok lètu bera á þá vâpn, ok feldu á þá tjöld, enn þeir voru ecki viðbúnir, ok drepa þá alla. Eptir þetta færa þeir konúngi herfáng þetta allt. Konúngr lætr nú vel yfir, ok qvaz nú mundo vera einn konúngr fyrir Áka. Fjölni þótti nú allvel, ok þóttiz goldit hafa nockuru, er hann náði eigi arfinum.

2. Nú spyrjaz þessi tíðendi á Fjón, ok er Pálnir heyrði þetta, þickir honum svâ mikit, at

hann legz í reckju af. Honum þóttu hefndir ósýnar við þann sem at eiga var, er konúngr var. Sigurðr hèt maðr, hann var fóstbróðir þeirra, vitr maðr ok auðigr. Pálnir leitaði ráða við hann, hvernveg hann skyldi meðfara. Sigurðr qvez vildo biðja konu handa honum. Pálnir spyrr, hver sú væri. Sigurðr qvað vera Íngibjörgu dóttur Óttars jarls af Gautlandi. Pálnir segir: þat uggi ek, at ek muna eigi geta þessa konu, enn víst ætla ek, at þat mundi vænst til umbóta minna harma, ef ek fenga þessa konu. Nú býz Sigurðr heiman, hann hafði eitt skip ok sextýgi manna, ok ferr norðr til Gautlandz. Sigurðr lýsir yfir örendi sínu fyrir jarli, ok biðr dóttur hans til handa Pálna, qvað hann ei skorta fjárlut á Fjóni, ok qvað bana Pálna við liggja fyrir harma sakir. Þær verða mála lyktir, at jarl heitr dóttur sinni, ok skal færa heim konuna. Síðan ferr Sigurðr heim ok segir Pálna þessi tíðendi, ok lèttiz honum mikit við þetta; búa þeir nú veizlu ágæta á Fjóni, ok spara ecki til; ok á nefndum degi kemr jarl ok mikit lið, ok var þar druckit vegligt bruðlaup, ok síðan leidd í eina reckju Pálnir ok Íngibjörg. Hon sofnar brátt oc dreymir hana, ok er hon vaknar, sagði hon Pálna drauminn: þat dreymði mik, segir hon, at ek þóttumz hèr stödd á þessum bœ, enn ek þóttumz uppi eiga einn vef, hann var grár at lit; mèr þótti kljáðr vefrinn, ok var ek at at slá

vefinn; þá fèll af einn [kljár[1]] af miðjum vefnum á bak; þá sá ek at kljárnir voru mannahöfuð ein, ok ek tók upp þetta höfuð, ok kenda ek. Pálnir spurði, hvers höfuð væri; enn hon qvað vera höfuð Haralds konúngs Gormssonar. Pálnir qvað betra enn eigi dreymt. Svâ þicki mèr ok, segir hon. Eptir þessa veizlu ferr Óttar jarl heim í Gautland með gjöfum virðuligum; enn með þeim tókuz upp ástir góðar, Pálna ok Íngibjörgu, ok brátt gátu þau son saman, sá var kallaðr Pálnatóki. Hann vóx upp á Fjóni, ok er snemmendis bæði mikill ok vitr ok vinsæll; ok er Pálnatóki er af enum mesta barnsaldri, þá tekr faðir hans sótt ok andaz. Pálnatóki tekr nú fjárluti alla með móður sinni til forráða. Hann legz nú í hernat hvert sumar, ok þickir nú frægr maðr, ok aungum manni þickir hann jafnlíkr í sinni lyzku, sem Áka föðurbróður sínum.

[*Pálnatóki qvongaz*].

3. Þenna tíma rèð jarl sá fyrir Bretlandi er Stefnir hèt; hann átti dóttur eina er Álof hèt, hon var vitr ok vinsæl. Pálnatóki kemr þar við land skipum sínum, ok ætlaði at herja á ríki Stefnirs jarls; ok er þetta spyrst, þá tekr Álof þat ráð ok þau Björn hinn brezki, hann var ráðgjafi hennar, þau bjóða Pálnatóka til veizlu ok mikillar vegsemðar, ok átti hann þar friðland ok herjaði eigi, ok þetta þeckiz Pálnatóki, ok sækir til veizlunnar með öllu liði sínu; ok á þeirri

[1]) *Gizkat;* kleinn, A; keinn, R.

veizlu biðr Pálnatóki Álofar, ok var þat mál auðsótt; ok þá þegar er brugðit til bruðlaups, ok þar með gefr Stefnir jarl Pálnatóka jarls nafn ok hálft ríki sitt, enn hann átti allt eptir hans dag. Pálnatóki var þar um sumarit ok um vetrinn, enn um [vârit] mælti Pálnatóki við Bjavrn hinn brezka: nú ætla ek heim til Danmerkr, enn þèr ætla ek hèr eptir með Stefni mági mínum, ok hafa landráð fyrir mína hönd.

*Viðrtal Æsu ok konúngs.*

4. Eptir þat ferr Pálnatóki á braut með Álof konu sína ok heim á Fjón í Danmörku. Hann sitr nú heima at búum sínum um hríð, ok þickir nú hann annarr mestr maðr í Danmörku ok ríkaztr ok bezt at viti búinn annarr enn konúngrinn. Haraldr konúngr ferr nú at veizlum um landit. Pálnatóki býr nú veizlu, ok býðr til Haraldi konúngi, ok konúngr þeckiz þat; hann var þar leingi á veizlu; en kona sú var feingin til þjónustu við konúng, er Æsa hèt, ok kölluð Saumæsa, hon var snauð kona ok þó vel kunnandi. Nú fór konúngr af veizlu, ok var reifðr mörgum gjöfum. Um sumarit eptir var Saumæsa með barni, ok Pálnatóki talaði ok spurði, hverr í hlut ætti með henni; hon qvað þar engan til nema konúnginn; þá skal ek taka þic af starfi þar til er hagr þinn lèttiz. Nú líða stundir, ok fæðir Æsa barn, er [því] nafn gefit, ok hèt Sveinn, ok kallaðr Saumæsu-Sveinn. Hann vex upp á Fjóni, ok gerir Pálna-

tóki vel til hans, ok svâ menn hans. Ok er Sveinn var þrèvetr, tekr Haraldr konúngr þar veizlu á Fjóni. Nú er Pálnatóki í tilstilli með Saumæsav: um daginn, er konúngr sat yfir borði, kemr Æsa fyrir borðit, ok leiðir sveininn ok mælti: herra konúngr! segir hon, hèr leiði ek einn svein, [ok kalla ek þar öngan mann annan stigi[1]] til at eiga þenna svein með mèr enn yðr konúngr. Konúngr segir brátt, er hon hafði lokit máli sínu, hverr hon væri. Hon segir til nafns síns. Konúngr mælti: firna djavrf kona ertu ok heimsk, ok dirf þic eigi at mæla slíct, ef þú vilt vera ómeidd. Pálnatóki mælti: því mun hon þetta mæla, herra! at henni mun þetta þickja satt vera, ok ecki er hon lausúngar kona; höfum vèr ok fyrir yðrar sakir skotit skjóli yfir hana. Konúngr svarar: Eigi var mèr þess vân, at þú mundir þetta ræsa á hendr[2]). Svâ skal ok vera, segir Pálnatóki, enn svâ skal ek hefja hans kost, sem hann sè þinn sonr. Konúngr mælti: aunga öfussu kann ek þèr fyrir þat. Pálnatóki segir: aungo skal þat skipta, skolu vèr nú láta falla þessa rœðu at sinni. Eptir þat ferr konúngr af veizlu með engum gjöfum, ok er fátt um með þeim Pálnatóka.

*Viðrœða Sveins ok Haralds konúngs.*

5. Litlo síðarr fæddi Álof svein, sá var kallaðr Áki, hann var fæddr upp á Fjóni með feðr sínum. Sveinn er nú þar til þess er hann

[1]) *þannig A*; reigi, *R.* [2]) frammflytja, *J.*

er fimmtán vetra. Þá biðr Pálnatóki hann fara á fund föður síns ok krefja hann liðs, ok segjaz hans sonr, hvârt er honum þickir betr eða verr. Sveinn gerir nú svâ sem fóstri hans lagði til. Haraldr konúngr segir: þat skil ek á orðfæri þíno, at ei man logit til móðernis þíns, muntu vera eitt fól ok afglapi. Þá mælti Sveinn: ek munda vilja eiga göfgari móður, ef þú hefðir svâ fyrir sèð, enn at savnnu ertu minn faðir. Nú fá þú mèr þrjú skip, enn fóstri minn mun fá mèr avnnur þrjú; enn ef þú vilt eigi þat, þá skal ek gera þèr þat nockut illbýti, er meira sè vert. Konúngr mælti: ek ætla at þú munir vera því brátt kaupandi, ok kom aldrei aptr! Eptir þat fær konúngr Sveini þrjú skip ok hundrað manna. Pálnatóki fær Sveini avnnur þrjú skip. Hann herjar á ríki feðr síns allt þat sumar; geriz illr kurr í bœndum; konúngr leiðir hjá sèr, líðr svâ til haustz. Ferr Sveinn þá heim á Fjón, ok er með Pálnatóka um vetrinn. Um vârit ferr Sveinn á fund Haralds konúngs, ok ferr allt á sama leið. Sveinn fær nú sex skip af konúngi, enn Pálnatóki fær honum avnnur sex. Sveinn herjar enn á ríki föður síns, ok er nú hálfo ákafari, geingr nú aldri af þeim. Hann herjar bœði of Sjáland ok Halland; þeir drepa nú margan mann. Þessi tiðendi spyrjaz nú víða; bœndr fara á konúngs fund, ok segir honum til sinna vandræða, enn konúngr lætr enn líða hjá sèr. Um haustit fór Sveinn til Pálnatóka með öllu

liði, ok er þar um vetrinn. Enn er vârdagar koma, býr Sveinn lið sitt, gerir allt eptir því sem fóstri hans lagði ráð á með honum. Hann ferr nú á konúngs fund, ok biðr hann fá sèr tólf skip. Konúngr segir: þú ert maðr svâ djarfr, at ek veit eigi þinn maka, er þú þorir at koma á minn fund, þar er þú ert bœði þjófr ok ránsmaðr, ok við þinni frændsemi geing ek aldri. Sveinn segir: at vísu em ek þinn son, ok savnn er ockar frændsemi; enn þó skal ek þèr eigi þyrma; þvíat nú þegar skolu við berjaz, ef þú fær mèr eigi slíkt, er ek vil, ok skaltu nú hvergi undan hokra. Konúngr segir: vandræðamaðr ertu, ok þannig er þitt lyndi, sem þú munir vera eigi smára manna nöckurra, ok muntu hafa verða þat er þú kallar, far síðan á braut ok kom aldri aptr! Nú ferr Sveinn á fund Pálnatóka með þrjátýgi skipa; hann tók nú vel við honum, ok þicki mèr þú vel hafa þat er ek legg til með þèr; nú skaltu herja því mest á Danmörk í sumar, sem nú hefir þú mestan aflann; enn nú mun konúngr eigi þola þèr leingr, enn þú flý eigi, þó lið sè gjört til þín, þvíat ek mun koma at veita þèr. Enn ek ætla til Bretlandz í sumar til Stefnis jarls mágs míns með þessi níu skip. Nú skilja þeir ok fara báðir senn or landi. Sveinn herjar nú á Danmörk nótt með degi, drepr menn, enn rænir fè öllu, ok brennir hèröð. Landsmenn flýja nú undan illa leiknir ok segja konúngi. Honum þickir nú eigi vera mega

svâ búit. Konúngr lætr nú búa fimmtýgi skipa, oc fylgir sjálfr, leita nú Sveins; ok um haustið finnaz þeir við Borgundarhólm; þat var svâ síð, at eigi þótti mega til bardaga leggja; enn um morguninn þegar vígljóst var leggja þeir saman skip sín, ok berjaz þann dag allann til qveldz, ok voru þá hroðin tíu skip af Haraldi konúngi, enn tólf af Sveini. Sveinn leggr nú skip sín inn í vâgsbotninn um kveldit, enn konúngr leggr sínum skipum um þveran vâginn, ok verpa Svein þar inni. Þetta sama kveld kemr Pálnatóki þar við land, hann hefir fjögur skip ok tuttugu; hann leggr avðrum megin undir nesit ok tjaldar þar. Eptir þat geingr Pálnatóki á land einn saman, hann hafði með sèr boga og avrvamæli. Þenna sama aptan geingr Haraldr konúngr á land upp við tólfta mann; þeir fara í skóg, ok gera sèr bakeld, þá var myrkt af nótt. Konúngr afklæðiz ok bakaz. Pálnatóki sèr eldinn í skóginn; ferr hann þar í svig við, þeckir mennina, leggr nú avr á streing, ok skýtr í gegnum Harald konúng, fèll hann þegar dauðr niðr. Pálnatóki snýr þegar aptr til liðs síns, enn förunautar Haralds konúngs styrma yfir honum; þeir mælto með sèr, hverso með skyldi fara. Fjölnir mælti: þat er mitt ráð, at vèr hafim eina sögn allir, at Haraldr konúngr hafi skotinn verit í bardaga, þvíat þat má sízt vârri vangeymslu kenna; ok nú binda þeir þetta fastmælum. Fjölnir tekr avrina ok varðveitir, var hon auð-

kend, því at hon var gulli reyrð. Pálnatóki kallar með sèr tuttugu menn, qvez vildo finna Svein, fara nú yfir þvert nesit, ok gera ráð sín. Segir Sveinn, at hann vill at Pálnatóki geri ráð fyrir þeim. Pálnatóki segir aungum manni líflát konúngs; han mælti: eigi skolum vèr seint til ráða taka: vèr skolum gánga á skip með yðr, enn síðan skolum vèr leysa skip vâr avll, ok veita atróðr flota konúngs, er mèr leitt, at konúngr kvíi oss hèr ok drepi. Nú er svâ gert; veita þeir nú atróðr flotanum; þar fóruz þrjár sneckjur af liði konúngs, ok komuz þeir einir menn af, er syndir voru; enn þeir Pálnatóki ok Sveinn reru út í þat hlið öllum skipum, ok svâ til liðs þess, er Pálnatóki hafði þángat haft. Um morguninn leggja þeir at konúngs mönnum, ok spyrja þau tíðendi, at konúngr hefir látiz. Þá mælti Pálnatóki: þá eru tveir kostir, at berjaz við oss, eða taka Svein til konúngs; þeir vilja nú heldr taka við Sveini. Síðan fóru þeir báðir ok qveðja þíngs; var þá Sveinn til konúngs tekinn yfir alla Danmörk. Nú er Sveinn er konúngr orðinn, þickir honum skyldt at erfa feðr sinn, ok býðr Pálnatóka, enn hann qvez eigi mega fyrir þær vetrnœtr; því at mèr er sagt, at Stefnir mágr minn sè dauðr, enn ek á þar ríki allt. Nú eyðiz erfi þat haust; enn Pálnatóki fór or landi, enn hann setr Áka son sinn eptir á Fjóni, ok bað honum virkta af Sveini konúngi. Konúngr hèt því, ok svâ gerði hann.

Pálnatóki ferr nú til Bretlandz, og tekr nú þar við ríki, ok liðu af þau misseri. Um sumarit eptir sendi Sveinn konúngr menn til Pálnatóka, at bjóða honum til erfis, enn Pálnatóki qvez enn eigi fara mega, ok eyðiz erfi þau misseri; ok nú er sumrar, lætr Sveinn konúngr efna til erfisgerðar, sendir enn menn til Pálnatóka, biðr nú hann koma til erfisgerðar, ok segir nú á reiði sína, ef han ferr nú eigi. Pálnatóki segir sendimönnum, at han mun nú koma, ok konúngr láti búa veizluna. Konúngr lætr nú búa erfit, ok býðr til fjölða mannz; ok þá er allt var tilbúit ok boðsmenn komnir, líðr á daginn, ok kemr eigi Pálnatóki, ok gánga menn til dryckju. Konúngr lèt liggja rúm [Pálnatóka] í avndugi á inn óæðra beck ok hans manna utar frá, síðan taka þeir oc drecka. Nú er at segja frá þeim Pálnatóka ok Birni hinum brezka, þeir hafa þrjú skip oc hundrað manna, ok hálft hvârt Danir eða Bretar. Þeir koma þetta hit sama kveld fyrir konúngs bœinn; þá var veðr allgott. Þeir snúa skipum sínum, ok bera upp skutfestar, ok leggja árar í háreiðar. Þeir gánga nú til konúngs bœjar með avllu liðinu. Pálnatóki geingr nú í höllina, ok allir þeir, ok fyrir konúnginn, ok heilsar konúngi. Konúngr tók vel máli hans, ok vísar hönum til sætis, ok öllum þeim, taka nú at drecka. Fjölnir hneigðiz at konúngi, ok talaði við hann hljótt um hríð; konúngr brá lit við, ok gerði rauðan sem blóð.

*Pálnatóki geingr við skeyti sínu.*

6. Maðr hèt Arnoddr, kertisveinn konúngs, ok stóð fyrir borði hans. Fjölnir selr honum ör eina, ok biðr hann bera fyrir alla menn, þá er voru í höllinni, þar til er nöckurr kannaðiz við at ætti. Hann geingr fyrst innar frá sæti konúngs, þá utar frá kóngi til gáttar, þá geingr hann innar fyrir Pálnatóka, ok spyrr, hvârt hann kenni nöckut þetta skeyti. Pálnatóki segir: hví mun ek eigi kenna skeyti mitt, sel mèr, ek á. Þá skorti eigi hljóð í höllinni, þegar nockurr eignaði sèr þetta skeyti. Sveinn konúngr mælti: hvar skilðiz þú við þetta skeyti næsta sinn? Pálnatóki segir: opt hefi ek þèr eptirlátr verit, fóstri! ok svâ skal enn. Ek skilðumz við á boga-streingnum, þá er ek skaut ígegnum feðr þinn. Konúngr mælti: standi menn upp sem tíðazt, ok hafi hendr á þeim Pálnatóka, ok skal drepa þá alla, því at nú er sundr slegit öllum góða þeim er verit hefir með okr. Nú hlaupa upp allir í höllinni. Pálnatóki bregðr nú sverði sínu, ok havggr Fjölni frænda sinn í tvav, ok síðan leitar hann út, ok allir hans menn; því at svâ átti hann þar vel vingat, at eingi vildi honum grand gera. Nú eru þeir Pálnatóki komnir allir út or höllinni nema einn maðr af liði Bjarnar. Pálnatóki mælti: ecki var minna at vân, ok skundum nú til skipa. Björn segir: eigi mundir þú svâ renna frá þínum manni, ok ei skal ek; snýr inn aptr í höllina. Þeir kasta þá enum brezka

manni yfir höfuð sèr, ok hafa nær rifit í sundr. Björn ferr nú ok tekr manninn, ok kastar á bak sèr dauðum, ok mest gerði Björn þetta til ágætis sèr; fara nú síðan til skipa sinna, fèllu nú við árar ok reru í braut, lètta nú eigi fyrr enn þeir komu heim til Bretlandz. Þeir Sveinn konúngr drecka nú erfit, ok unir hann illa við. Et næsta sumar eptir tekr Álof sótt, kona Pálnatóka, ok andaz, ok nú unir hann eigi í Bretlandi, ok setr þar til ríkis Björn inn brezka, enn hann býr nú ör landi þrjátýgi skipa, ok legzt nú í hernað. Hann herjar nú um Skotland ok Írland, ok hefir nú þessa iðn þrjá vetr, ok aflar sèr mikils feár ok ágætis. Hit fjórða sumar siglir Pálnatóki austr undir Vindland, ok hefir hann þá fjörutýgi skipa.

### *Vináttuboð við Pálnatóka af Burizleifi konúngi.*

7. Í þenna tíma rèð fyrir Vindlandi konúngr sá er Burizleifr hèt; hann spyrr til Pálnatóka, ok hyggr íllt til hernaðar hans, því at hann hafði nær ávalt sigr, ok var hverjum manni frægri. Þat ráð tekr konúngr, at hann sendir menn á fund Pálnatóka, ok býðr honum til sín, ok kvez vilja leggja við hann vináttu. Þat lætr konúngr ok fylgja þessu boði, at hann vill gefa honum eitt fylki af landi sínu þat er hèt at Jómi, til þess at hann verði land hans ok ríki ok staðfestiz þar. Þetta þiggr nú Pálnatóki, oc staðfestiz nú þar, ok allir hans menn; ok bráðliga

lætr hann gera þar eina borg mickla ok ramgerfa. Sumr hluti borgarinnar stóð á sjá út, ok þarí lætr hann gera höfn svâ mickla, at liggja mátti við þrjú hundruð lángskipa, svâ at öll voru læst innan borgar; var þar búit um með mikilli list, svâ at þar voru dyrr á, enn steinbogi mikill yfir uppi, enn fyrir dyrunum voru járnhurðir ok læstar innan or höfninni, enn á steinboganum var gerðr kastali mikill ok þar valslöngur í: þessi borg er kölluð Jómsborg.

8. Eptir þetta setr Pálnatóki lavg í Jómsborg með vitra manna ráði, til þess at þeirra ágæti yrði sem víðfrægazt, ok afli þeirra yrði sem mestr. Þat var upphaf laga þeirra: at þángat skyldi eingi maðr ráðaz, sá er ellri væri enn fimmtugr, ok eingi ýngri enn átján vetra, þaráméðal skyldu allir vera; hvârki skyldi því ráða frændsemi, þó at þeir menn vildi þángat ráðaz, er eigi væri í þeim lavgum. Eingi maðr skyldi þar renna fyrir jafnvígligum ok jafnbúnum. Hverr skyldi þar annars hefna sem bróður síns. Eingi skyldi þar æðruorð mæla, nè qvíða neinum hlut, hvegi óvænt sem um þætti. Allt þat er þeir fengi í herförum, þá skyldi til stángar[1]) bera minna hlut ok meira, þat er fèmætt væri, ok ef hann hefði þat eigi gert, þá skyldi hann í brottu verða. Eingi skyldi þar róg kveyqva, enn ef tíðindi fregndiz, þá skyldi eingi svâ hvatvíss, at þau skyldi í hávaða segja; þvíat

[1]) til skiptis, *J.*

Pálnatóka skyldi þar öll tíðendi segja. Eingi maðr skyldi konö hafa í borgina, ok eingi í brött vera þrem nóttum leingr. Ok þó at við þeim manni væri tekit, er vegit hefði föður eða bróður þess mannz, er þar væri áðr, eða nâcqvarn náinn mann, ok kœmi þat síðan upp, er við honum væri tekit, þá skyldi Pálnatóki þat allt dœma, oc hvatki missætti annat, er þeirra yrði ámilli. Með þessu efni sitja þeir nú í borginni, ok halda vel lög sín. Þeir fara hvert sumar í hernat á ymsi lönd, ok fá sèr ágæti, þóttu vera enir mestu hermenn, ok náliga engir þeirra jafníngjar í þann tíma, ok voru kallaðir Jómsvíkíngar.

9. Í þenna tíma rèð fyrir Sjálavndum jarl er Haraldr hèt; hann var kallaðr Strútharaldr; því var hann svâ kallaðr, at hann átti hatt, er búinn var með tíu merkr gullz; Íngibjörg hèt kona hans; Sigvaldi hèt son þeirra, annarr Þorkell hási, dóttir þeirra hèt Tóva. Maðr hèt Veseti, hann rèð fyrir Borgundarhólmi; kona hans hèt Hildigunn; Búi hèt son þeirra, annarr Sigurðr kápa, dóttir þeirra hèt Þórgunn. Áki son Pálnatóka býr á Fjóni, ok lætr Sveinn konúngr alla luti við hann sem bezt. Þessar konu biðr Sveinn konúngr til handa Áka, ok við Þórgunnu getr hann son, sá hèt Vagn, hann vex upp heima þar. Ráðahagr Áka stendr með micklum blóma. Nú er Vagn nöckurra vetra, þá er svâ frá honum sagt, at hann var meiri vandræða-

maðr í skapi enn aðrir menn, barði hann allt ok beysti; hann var þá ýmist heima eðr í Borgundarhólmi með Veseta móðurföður sínum; því at hvárigir þickjaz mega um hann tæla. Við Búa er hann bezt allra sinna frænda, ok þat hafði hann helzt, er hann mælti, at öngu hafði hann þat er aðrir mæltu. Allra manna var hann vænstr, ok inn mesti atgervismaðr um alla luti, sterkr at afli. Búi móðurbróðir hans var hljóðlyndr ok skapmikill, sterkr svá at menn vissu óglavgt afl hans, ecki fríðr ok þó liðmannligr. Sigurðr kápa var vænn maðr ok inn mesti í skapi ok allfámálugr. Sigvaldi, son Haraldz jarls, var favlleitr, eygðr manna bezt, nefljótr, hár á vöxt ok snaufurligr. Þorkell bróðir hans var manna hæstr ok sterkr ok forvitri, ok hvártveggi þeirra. Þeir Sigvaldi spyrja föður sinn, hversu ráðlict honum þicki, at þeir leiti til Jómsborgar. Jarl segir, at þat væri ráðlict, ok er ykr allt mál at reyna ykr. Þeir spyrja, ef hann vili fá þeim vápn eðr vistir. Jarl qvað annathvárt vera skyldu, at fara hvergi eðr fá sèr sjálfir hvártveggja. Nú vilja þeir eigi fara at síðr, búa nú tvö skip ok hundrað manna, ok vönduðu lið þat sem mest fengu þeir, síðan fara þeir til Borgandarhólms. Þeir runnu þar upp, oc tóku upp bú Veseta þat er auðgazt var, ok ræntu hann því fè avllu, ok báru á skip síðan. Nú er ecki sagt frá ferð þeirra fyrr enn þeir koma til Jómsborgar. Pálnatóki geck jafnan með micklu liði á

kastala þann er var yfir sundinu, at tala þaðan við þá menn er komu til borgarinnar. Nú verðr hann varr við kvâmu þeirra Sigvalda; gengr Pálnatóki nú í kastalann með micklu liði, ok spyrr, hverr fyrir skipunum rèði. Sigvaldi segir: hèr ráða fyrir brœðr tveir, synir Strútharaldz jarls, enn þat er örendi ockat, at við vildím ráðaz til liðs við yðr með þeim mönnum, sem þèr þickja nýtandi í liði vâru. Pálnatóki ræðz um við fèlaga sína, qvað sèr kunnict um kynferði þeirra ok qvað þá vel borna. Þeir báðu Pálnatóka fyrir ráða; ok nú er lokit upp borginni, ok róa þeir í borgina, ok síðan reynt lið þeirra, oc var nýttr annarr helmíngr, enn annarr fór í brott, ok eptir þat eru þeir brœðr í lög leiddir.

*Veseti kemr [á fund Sveins konúngs].*

10. Nú er þar til at taka er Veseti er ræntr búi sínu. Hann ferr á fund Sveins konúngs, ok segir honum hvat títt er, enn hann setr aptr sonu sína at öllum geysíngi [1]). Konúngr ræðr honum þau ráð, at hann skal nú fyrst láta kyrt vera, enn ek mun senda orð Strútharaldi jarli, ok vita ef hann vili gjalda fè fyrir sonu sína, svâ at þú sèr haldinn af, ok vil ek þá, at þú látir þèr líka. Nú ferr Veseti heim, enn Sveinn konúngr sendir menn eptir Haraldi jarli, ok ferr hann á konúngs fund, ok segir konúngr honum hversu synir hans höfðu gert við Veseta, oc beiddi at

[1]) gjörníngum, J.

hann bætti fjárlutum fyrir þá, ok væri þá kyrt. Jarl sagði svâ: ófeingit hefi ek enn þess fjárins, er ek mun fyrir þá bœta, þó at úngir menn taki sèr naut eðr sauði til matar. Konúngr segir: þá máttu fara heim, því at ek hefi nú sagt þèr, hvat ek vilda, enn þú ábyrgzt þig sjálfr ok fè þitt fyrir Veseta ok sonum hans. Haraldr jarl qvez vera óhræddr fyrir Veseta ok sonum hans. Eptir þetta ferr Haraldr jarl heim.

*Sættargerð konúngs.*

11. Veseti ok synir hans spyrja viðræðu þeirra konúngs, þeir búa skip þrjú sem bezt ok tvö hundruð manna, síðan fara þeir í Sjáland; þeir taka upp þrjú bú þau er auðguzt voru, þeirra er Haraldr jarl átti, ok fara heim eptir þat. Nú spyrr Haraldr jarl, at hann er ræntr; hann sendi nú menn ok bað hann sætta þá, ok qvez nú vilja þat gjarna. Sveinn konúngr segir: Haraldr jarl skal nú hafa ráð sín hin góðu, því at hann vill ecki hafa mín ráð; nú mun ek eiga í engan lut; fara sendimenn aptr ok segja honum svâ búit. Jarl segir: vèr munum þá verða at taka til vârra ráða, ef konúngr vill hjá sitja. Haraldr Jarl býr nú tíu skip, ok ferr síðan í Borgundarhólm, ok rænir þar Veseta þrem búum þeim er ei voru verri enn þau er fyrir honum voru tekin; vendir Haraldr jarl nú aptr ok þickir ofraðar vel geingit hafa. Veseti spyrr þetta, ok ferr hann þegar á konúngs fund. Konúngr tók vel við honum. Veseti mælti þá: þannveg legz nú á ofstund með

oss Haraldi jarli, at ek hygg at ófriðr muni göraz milli landzmanna, ef eigi áttu hlut í. Kann vera at þèr þicki nú eigi verra enn síðarr. Konúngr segir: ek mun nú bráðliga til þess þíngs fara, er Íseyrarþíng [1]) heitir; mun ek þá boða til Haraldi jarli, ok skolu þit þá sættaz. Veseti ferr nú heim; líða nú stundir til þíngsins. Sveinn konúngr sækir nú þíngit með micklu fjölmenni, því at hann vill nú einn ráða milli þeirra; hann hafði fimmtýgi skipa. Haraldr jarl átti skamt at fara, ok hafði hann tuttugu skip. Veseti ferr ok til þíngs, ok hefir fimm ein skip, enn synir hans voru eigi þar. Enn Haraldr jarl hefir sín tjöld upp stundu leingra frá sæ. Veseti setr tjöld sín við sæinn hjá sundi því, er þar geingr hjá þíngstöðinni. Ok er á leið qveldit, þá sá þeir fara frá heimili Haralds jarls tíu skip til þíngsins. Þeir leggja í lægi, ok síðan gánga þeir upp til þíngs, ok eru þar synir Veseta. Búi var ítarliga klæddr, því at hann hafði tignarklæði Haraldz jarls, er til komo tuttugu merkr gullz. Havtt jarls hafði Búi ok á havfði, þann er búinn var með tíu merkr gullz. Þeir havfðu ok tekit frá jarli kistur tvær, ok var í hvârri níutýgi merkr gullz. Þeir geingo framm á þíngit alvâpnaðir ok með fylktu liði. Þá tekr Búi til orða: hitt er nú ráð, Haraldr jarl! ef þú þorir at berjaz, enda sè nöekur dáð í þèr, at þú takir vâpn

[1]) Íseyrarþíng, *J*.

þín, þvíat nú em ek búinn at berjaz við þik. Sveinn konúngr heyrði orð Búa, ok þickiz sjá, at hann mun eigi halda tign sinni, ef þetta ferr framm, geingr konúngr nú í milli þeirra, ok ná þeir eigi at berjaz, ok þar kemr nú, at hvârirtveggju hljóta at játa konúngs umdœmi, enn þat skorar Búi í sættina, at hann qvez aldrei mundu lausar láta gullkistur jarls; er þat ok mál manna, at hann þickir þat ent hafa. Síðan lýkr Sveinn konúngr upp sættargerðinni, ok ferr þaðan at: at þú, Búi! skalt laus láta tignarklæði jarls, enn gullkistör skaltu hafa báðar, þèr skoluð ok gjalda aptr þau þrjú bú jarls, er tekin voru fyrir honum, með því móti at jarl skal gipta Tóvo dóttur sína Sigurði kápu, skal þetta vera hennar heimanfylgja, þessi þrjú bú. Þeir taka nú vel þessu hvârirtveggjö, leggr Veseti til við Sigurð þriðjúng allz fjár, ok þickir Sigurði it vænsta um qvânfáng sitt, fara þeir nú þegar af þíngino til bruðlaupsins; þángat buðu ok hvârirtveggjo Sveini konúngi; er nú druckit bruðlaup þeirra Sigurðar ok Tóvo með mikilli tign. Veseti ferr nú heim ok setz um kyrt, ok er synir hans hafa skamma hríð heima verit, þá fýsiz Búi at fara til Jómsborgar, ok auka svâ ágæti sitt. Sigurðr vill ok fara, þótt hann sè qvângaðr. Nú búaz þeir heiman brœðr, ok hafa tvö skip ok hundrað manna, ok vilja gera sem líkazt því sem gerðu synir Strútharalds [jarls]. Þeir koma til Jómsborgar, ok leggja utan at hafnar dyrum. Nú

gánga höfðíngjar í kastala með micklo liði, kennir Sigvaldi menn þessa. Nú segir Búi sitt erindi, qvez vildo ráðaz þángat til liðs við Pálnatóka, ef hann vildi við honum taka ok þeim báðum brœðrum. Sigvaldi mælti þá: hversu hafi þèr Strútharaldr sett málum yðrum áðr þèr fóruð or landi? Búi segir: þat er laung saga um vâr viðskipti, ok má ek nú ecki segja þèr, enn sáttir erum vèr eptir konúngs dómi. Nú mælti Pálnatóki við sína menn: vili þér tilhætta, hvârt þessir menn segja satt eðr eigi, enn allfúss væra ek til þeirra, því at fáir munu slíkir í vârö liði. Þeir segja: vèr viljum at þú takir þá í lavg með oss, ef þér sýniz; enn ef nockurir lutir koma þeir upp síðan um hagi þeirra, er vèr vitum eigi, þá sè þat sem annat á þínum dómi. Eptir þat var lokit upp borginni, ok leggja þeir Búi nú skipum sínum í höfnina, ok [er] síðan reynt lið þeirra, ok þóttu þar áttatýgi manna hlutgeingt, en fjörutýgi fóro heim. Sitja nú enn í borginni með mikilli frægð, enn ero hvert sumar í víkíng, ok vinna nú enn mavrg snildarbravgð.

*Frá Vagni.*

12. Nú er at segja frá Vagni Ákasyni, at hann var ýmist með feðr sínum eða með Veseta móðurföður sínum; hann var maðr svâ úeirinn, at hann hafði drepit þrjá menn, þá er hann var níu vetra. Hann er nú þó heima þar til er hann er tólf vetra. Ok nú segir hann favður sínum, at hann fái honum lið, ok Áki fær honum hálft

hundrað manna ok skip, enn Veseti fær honum ok hálft hundrað manna ok annat lángskip; ok er eingi sá maðr er honum fylgir ellri enn tvítugr ok eingi ýngri enn átján vetra, nema Vagn, hann var tólf vetra; hann qvaz mundo sjálfr fá sér vista ok vâpna. Nú heldr Vagn á braut liði sínu, ok þarf nú brátt at fá til vista. Hann ferr fyrir endilánga Danmörk, ok havggr strandhögg ósparliga, rænir hann ok bœði herklæðum ok vâpnum. Hann lèttir eigi fyrr enn hann hafði bæði gnóg vâpn ok klæði, áðr hann siglir or Danmörk. Hann heldr nú skipum sínum til Jómsborgar, ok kemr þar snemma dags, þegar í sólar upprás; hann leggr utan skipum sínum at steinboganum, enn höfðíngjar borgar geingu framm með micklu liði, ok spyrja hverir komnir væri. Vagn spyrr ímót, hvârt Pálnatóki væri í kastala. Pálnatóki segir, at svâ var, eðr hverr ertu, er svâ lætr ríkmannliga? Ecki skal því leyna þik, at ek heiti Vagn, ok em ek Áka son, ok því hèr kominn, at bjóða þèr mitt lið, [at] ek þótta eigi dœll heima. Pálnatóki segir: þicki þèr ráðit, frændi! at þú þickir hèr dæll, ef menn mega trautt heima um þic tæla? Vagn mælti: logit er þá at mèr, frændi! ef slíkir eru ei nýtir í lögum yðrum. Pálnatóki mælti þá til sinna manna: hvârt þickir yðr ráð, at vèr takim við þeim? Þat þicki mèr ráð, segir Búi, ok er [hann þó [1]] við mig bezt sinna frænda,

[1]) *bætir inn í F.*

at vèr takim eigi við honum. Pálnatóki mælti: Vagn frændi! við þèr rísa vârir menn ok jafnt frændr þínir sem aðrir. Vagn segir: eigi varði mic þess, Búi frændi! af þèr. Búi mælti: Þar em ek saðr [1]) at því. Vagn mælti: hvat leggja þeir til, synir Strútharalds? Sigvaldi mælti: hafa skolum við til þess einörð, at við vildim at þú kœmir aldri í vârn flock. Nú segir Pálnatóki: hversu gamall ertu, frændi? Vagn segir: ecki skal ljúga til þess, ek em tólf vetra. Pálnatóki mælti: Þá mælir þú eigi lavg við oss, þvíat þú ert maðr myckln ýngri, enn vèr hafim í lavg tekna, ok bítr þetta fyrir, at þú mátt eigi hèr vera. Vagn segir: ek mun ecki halda til þess at brjóta lavg þín, enn þá eru þau sízt brotin, ef ek em sem einn átján vetra eðr ellri. Pálnatóki mælti: haltu ecki til þessa, frændi! ek mun heldr senda þic til Bretlandz á fund Bjarnar; ok fyrir vâra frændsemi, þá gef ek þèr ríki þat hálft, er ek à í Bretlandi. Vagn svarar: vel er þat boðit, enn ei vil ek þann. Hvar til ætlar þú, frændi! segir Pálnatóki, er þú vill eigi slíkt? Þat skal nú lýsa, segir Vagn, ek býð Sigvalda syni Strútharaldz, at hann leggi or borginni tveim skipum, ok reynum með oss, hvârir undan láta, eða hvârir meira hlut hafi; ok skal þat vera mark til með oss, at þèr skoluð við oss taka, ef þeir láta undan, ella skolu vèr í brutt leggja; ok eigi býð ek honum þetta með minna

[1]) sannr, F.

kappi, enn Sigvaldi beriz við oss, ef hann er óragr karlmaðr, ok hefir hann heldr mannz hug enn berkyqvendis [1]). Pálnatóki mælti: hvârt heyrir þú, Sigvaldi! hvat Vagn segir, ok ecki vandar hann boð at þèr; ok þat ætla ek, at þèr komit í gilda raun, enn við þat er svâ mikit er ummælt, þá kann ek eigi at letja at þèr leggit at þeim, ok gerit þeim þat íllt er þèr megit, enn eigi vil ek at þèr drepit Vagn, þó at hann þicki eigi aldœli. Eptir þetta herklæðaz þeir Sigvaldi, ok róa at þeim tveim skipum, ok þegar slær þar í harðan bardaga, láta þeir Vagn gánga grjóthríð svâ harða, at þeir Sigvaldi máttu ecki annat gera enn hlífa sèr, ok höfðu þó œrit at vinna. Þeir lögðu síbyrt, ok þegar er grjót fættiz [2]), þá láta þeir eigi þurfa at bíða havggvanna; enn svâ kemr því máli, at Sigvaldi lætr síga undan inn til landz, ok vill fá sèr grjót, enn þeir Vagn þegar eptir, ok finnaz nú á landi, ok verðr Sigvaldi nú við at hravckva, ok er sjá mycklu meiri bardagi, fellr nú liðit Sigvalda. Þeir Pálnatóki eru nú í kastalanum, ok horfa á. Pálnatóki þickiz nú sjá hversu fara mun, kallar nú á Sigvalda, at þeir skyli hætta; því at yðr mun eigi endaz at þreyta þetta; er þat mitt ráð, at við takim við Vagni ok hans mönnum, þó at hann sè ýngri enn í lavgum vârum er mælt; ok er góð vân, at sjá maðr muni verða mikil kenpa at

[1]) blauðs kvikendis, *J*; berkvikindis, *F*. [2]) tók at fækkast, *J*.

því er mèr sýniz. Nú gera þeir sem Pálnatóki mælti, hætta nú bardaga ok taka við Vagni ok hans fèlögum, ok eru þeir nú lavgteknir. Þrjátýgir manna höfðu fallit af Sigvalda, enn fáir af Vagni, enn margir voru sárir. Vagn fylgir þeim nú í hverja herför ok stýrir skipi, ok þickir nú eingi jafnmikill bardagamaðr sem hann. Þessu fór nú framm þrjú sumur. Nú er Vagn fimmtán vetra; þá tekr Pálnatóki sótt; lætr hann þá senda eptir Burizleifi konúngi; ok þá er konúngr kemr til Pálnatóka, þá mælti hann: þat er hugboð mitt, herra konúngr! at ek muna eigi taka fleiri sóttir enn þessa. Konúngr mælti: þat er mitt ráð, at þú kjósir mann í stað þinn at skipa þeim málum, er þú hefir áðr fyrir sèð, ok sè sá höfðíngi í borginni, ok hafiz þèr enn hèr við. Pálnatóki segir, at honum þótti Sigvalda minnz tilskorta at sjá yfir mál manna, ok þicki mèr þó alla þá naqvat skorta á þat, sem ek hefi verit. Konúngr mælti: opt hafa oss þín ráð vel gefiz, ok skal þetta enn hafa it síðarsta; skolu standa öll hin fornu lavg í borginni. Ecki er Sigvaldi þessa trauðr, ok geingr hann at allglatt. Nú gefr Pálnatóki Vagni frænda sínum hálft Bretland til eignar ok forráða með Birni hinum bretzka, ok bað Vagni virkþa á alla vega við liðit; ok litlu eptir þat andaz Pálnatóki, ok þickir þat öllum mönnum mesti skaði.

*Svik við Svein konúng af Sigvalda.*

13. Sigvaldi hefir skamma stund stýrt lögum þeirra, áðr nöcquð breytiz or því sem áðr var: þá vâru konur þar tveim nóttum saman eða þrem, ok svâ eru menn nú or borginni leingr enn þá er Pálnatóki lifði. Verða ok stundum áverkar eðr einstaka víg. Burizleifr konúngr átti þrjár dœtr: hèt in elzta Ástríðr ok var hon hin vænsta kona ok hin vitrazta, avnnur hèt Gunnhildr, þriðja Geira; hennar fèck Ólafr Tryggvason. Sigvaldi ferr nú á konúngs fund ok býðr honum tvâ kosti, at hann muni eigi vera í borginni, ella gefi hann honum Áztríði dóttur sína. Þat hafða ek ætlat, segir konúngr, at hon mundi þeim manni vera gipt, er tignari væri fyrir nafns sakir enn þú ert, enn þó væri mèr nauðsyn, at þú værir í borginni, ok skolum vèr ráða um öll saman. Konúngr hittir nú Ástríði dóttur sína, ok spyrr, hversu henni væri at skapi sá ráðahagr, at hon sè gipt Sigvalda. Ástríðr segir: þèr satt at segja, þá vilda ek Sigvalda aldregi eiga, ok þat skal hann tilvinna at koma af avllum skavttum af landinu, þeim er vèr höfum áðr goldit Danakonúngi, áðr hann komi í mína sæng. Honum er annarr kostr, at hann komi Sveini konúngi híngat, svâ at þú eigir hans vald. Konúngr ber þetta nú upp fyrir Sigvalda, enn hann er fúss til ráðahags við Ástríði; kemr þar, at Sigvaldi játar þessu, ok binda þetta fastmælum, skal þetta komit framm fyrir hin

fyrstu jól, elligar eru avll mál þeirra laus. Sigvaldi ferr nú heim til Jómsborgar, ok litlu síðarr býr hann þrjú skip ok þrjú hundruð manna or borginni, ok ferr nú þar til er hann kemr við Sjáland. Hann hittir menn at máli, ok spyrr at Sveinn konúngr tekr veizlu skamt þaðan. Þá leggr hann skip sín við eitt nes, þar vâru hvergi skip í nánd. Þat var skamt frá bœ þeim, er konúngr drack með sex hundruð manna. Þeir Sigvaldi snúa skipum sínum ok láta framstafna horfa frá landi, þeir teingja skip hvert af stafni annars. Síðan sendir Sigvaldi tuttugu menn á fund Sveins konúngs: ok segit honum svâ, at ek sè sjúkr ok at bana kominn, ok ek vilja fyrir eins finna hann, ok líf hans liggr við. Nú finna þeir konúng, ok bera upp þessi örendi. Konúngr bregz við skjótt, ok ferr þegar með sex hundruð manna. Enn er Sigvaldi verðr varr, at konúngr er kominn, þá lá hann á því skipi er first [1]) var landi. Hann mælti við sína menn: þá er þrjátýgir manna eru komnir á it skip, er næst er landi, þá skolu þèr kippa bryggju af landi, ok mæla at menn troði eigi skipin svâ at savckve, ok get ek at konúngr gángi í fyrra lagi, enn þá er tuttugu menn eru komnir á miðskipit, þá skolu þèr þar kippa bryggjum. Nú er konúngr [er] kominn á skipit, þá göra þeir sem mælt var. Nú er konúngr kominn á skip Sigvalda við tíunda mann, þá spurði konúngr hvârt

[1]) fjærst, *J.*

Sigvaldi hefði mál sitt. Honum var sagt, at máttr hans var sem minnztr. Konúngr geingr þá at reckju Sigvalda, ok spurði, hvârt hann mætti mæla. Sigvaldi svárar: lúttu at mèr nú! Enn er konúngr laut at honum, þá tók Sigvaldi annarri hendi um þverar herðar honum, enn annarri undir hönd honum, ok þá kallaði Sigvaldi, at avllum skipum skyli í braut róa sem skjótaz, ok svâ gera þeir, enn menn konúngs stóðu eptir á landi ok sá á. Þá mælti konúngr: hvat er nú, Sigvaldi! viltu svíkja mig, eða hvat ætlar þú fyrir? Sigvaldi segir: eigi mun ek svíkja yðr, enn fara skolu þèr til Jómsborgar, ok skolu þèr vera þar velkomnir, ok vèr skolum veita yðr alla virðíng. Konúngr segir: þat munum vèr nú ok þeckjaz; þeir fara nú til Jómsborgar, ok gera Jómsvíkíngar veizlu mickla móti honum, ok kallaz hans menn. Þá sagði Sigvaldi konúngi, at hann hefði beðit til handa honum dóttur Burizleifs konúngs, er Gunnhildr hèt, sú er vænst er; enn mèr er föstnuð systir hennar, er Áztríðr heitir; nú mun ek fara á fund konúngs ok vitja þessa mála fyrir þína hönd. Konúngr bað hann svâ göra. Sigvaldi ferr nú á fund Burizleifs konúngs með hundrað [manna [1]], ok talaz þeir við, lèzt Sigvaldi nú kominn til ráða við Áztríði; göra þeir nú Burizleifr konúngr ok Sigvaldi ráð sitt. Eptir þat ferr Sigvaldi heim. Sveinn konúngr spurði, hversu geingi málin.

[1]) *þannig A;* liði, R.

Sigvaldi qvað þat à hans valdi: ef þú konúngr vilt gefa upp Burizleifi konúngi skatta, áðr hann gipti þèr dóttur sína, ok er þat meiri sómi báðum ykr, at þú eigir þess konúngs dóttur, at eigi sè skattgildr. Svâ kemr Sigvaldi nú sínum fortavlum, at konúngr vill þenna kost; er nú áqvedin brullaupsstefna, ok skolu vera bæði senn bruðlaupin. Sækir Sveinn konúngr nú til veizlunnar, ok fylgja honum allir Jómsvíkíngar, ok er þar ríkulig veizla, svâ at menn mundo eigi vegligra boð í Vindlandi. En fyrsta aptan hafa brúðirnar síðfaldit, enn um morguninn eptir eru þær kátar, ok skupla þá ecki, ok hyggr þá Sveinn konúngr at yfirlitum þeirra, því at hann hafði hvâriga fyrr sèna, enn Sigvaldi hafði sagt, at sú væri konan vænni, er konúngr átti; enn konúngi leizt þá eigi svâ, oc þickir Sigvaldi hafa sagt eigi satt, sèr nú konúngr allt ráð hans, ok færir þó í nyt sèr allt þat, er honum þótti sèr til virðíngar snúaz mega. Nú er slitið veizlunni; ferr konúngr nú heim með konu sinni, ok hafði þaðan þrjátygi skipa ok mikit lið ok margar gersimar. Enn Sigvaldi ferr til Jómsborgar með konu sinni ok Jómsvíkíngar með honum. Litlu síðar spyrjaz þau tíðendi or Danmörk, at Strútharaldr jarl er andaðr, faðir þeirra Sigvalda ok Þorkels, enn Hemíngr bróðir þeirra var úngr. Nú sendir Sveinn konúngr orð Sigvalda, at þeir kœmi í Danmörk at erfa feðr sinn. Þeir sendu þau orð, at konúngr láti búa veizluna, ok spari

eigi fè þeirra, enn þeir qvoðuz mundu tilkoma um vetrnátta skeið. Þetta sýniz flestum mönnum óráðlict, ok gruna at vinátta þeirra Sveins konúngs ok Sigvalda muni grunn vera, þannveg sem farit hafði, enn þeir vilja ecki annat enn fara. Þeir búaz nú or borginni Jómsvíkíngar, ok hafa hálft annat hundrað skipa, fara þeir nú í Sjáland. Sveinn konúngr er þar fyrir, ok búin ágæt veizla. Þar er ok allmikit fjölmenni. Sveinn konúngr lætr nú þegar et fyrsta qveld bera þeim Jómsvíkíngum enn sterkazta dryck, enn þeir drecka ok afar fast. Sveinn konúngr finnr nú, at þeir göraz dauðdrucknir oc málgir mjög; þá tekr Sveinn konúngr til orða: hèr er nú glaumr mikill, væri nú þat sæmilikt, at vèr tækim upp gleði nöcqverja til skemtanar mönnum, þá er menn hefði at minnúm eptir síðan. Sigvaldi segir: þat þickir oss upphafligaz ok bazt[1]) fyrir sèð, at þèr hefið fyrst, því at vèr eigum allir til yðvar lúta. Konúngr mælti: þat veit ek menn göra at veizlum slíkum, at hafa fram heitstreingíngar til ágætis sèr; nú svâ sem þèr eruð ágætir um avll lavnd, svâ mun þat ok af bera, er þèr mælit um. Nú mun ek fyrir göra. Ek streingi þess heit, at ek skal rekit hafa Aðalráð Einglakonúng af ríki sínu fyrir hinar þriðju vetrnætr eða feldan hann elligar, ok náð svâ ríki. Nú áttu Sigvaldi, ok mæl þú eigi minna um! Hann qvað svâ vera skyldu: herra! þess streingi

[1]) það er bezt.

ek heit, segir hann, at ek skal herja í Noreg fyrir enar þriðju vetrnætr með því liði er ek fæ til, ok hafa eltan or landi Hákon jarl eða drepit, eða liggja þar eptir. Þá segir konúngr: Nú ferr vel at, segir hann, ok er þessa vel heitstreingt, ok ver hálfo at heilli, ok efn þetta vel! Nú áttu Þorkell enn hávi! ok er einsætt at láta verða stórmannliga. Þorkell segir: hugat hefi ek mína heitstreingíng, at fylgja Sigvalda bróður mínum ok flýja eigi fyrr enn ek sè á skutstafn skipi hans. Þetta er hraustliga mælt, ok þetta muntu vel efna. Þú, Búi digri! segir konúngr, nú áttu, ok muntu nacqvarninn merkiliga láta verða. Þess streingi ek heit, segir Búi, at ek skal fylgja Sigvalda í favr þessa, sem ek hefi karlmennzku til, ok haldaz við meðan Sigvaldi vill. Svâ fór, sem vèr gátum, segir konúngr, at sköruliga mundi verða af þinni hendi. Nú áttu, Sigurðr kápa! eptir bróður þínum. Skjótt er þat, segir Sigurðr, ek skal fylgja bróður mínum, ok flýja eigi fyrr enn hann, eða hann er dauðr. Slíks var vân, segir konúngr. Nú áttu, Vagn! segir konúngr, ok er oss mikit um at heyra þína heitstreingíng; þèr eruð kappar micklir, frændi! Vagn mælti: þess streingi ek heit, at fylgja Sigvalda í favr þessa, ok Búa frænda mínum, ok haldaz við meðan Búi vill, ef hann er lífs; þat skal ok fylgja þessi heitstreingíng, ef ek kem í Noreg, at ek skal drepa Þorkel leiru, enn gánga í reckju Íngibjargar dóttur hans án frænda ráði. Björn

enn bretzki var þar með Vagni. Þá mælti konúngr: hvers streingir þú heit, Björn? Hann segir: fylgja Vagni fóstra mínum svâ sem ek hefi dreingskap til. Nú slítr tali þessu, ok fara menn at sofa. Sigvaldi ferr í reckju hjá konu sinni Áztríði ok sofnar hann brátt ok fast, ok er hann vaknar, spyrr Áztríðr, hvârt hann muni heitstreingíng sína; hann qvez ei muna. Hon mælti: eigi mun þèr at því verða, sem eingi hafi verit, ok sagði honum, ok mun bæði viðþurfa vitz ok ráðagerðar. Sigvaldi mælti: hvat skal nú til ráða taka? þú ert vitr ok góðráð. Eigi veit ek þat, segir hon, enn til skal nacqvat leggja, því at þú hefir lítinn styrk síðarr af Sveini konúngi, ef þú fær nú eigi. Eptir þetta gera þau ráð sín. Kemr Sveinn konúngr í sæti sitt oc allir Jómsvíkíngar. Sigvaldi var kátr mjög. Sveinn konúngr spyrr þá hvârt Sigvaldi myndi heitstreingíng sína. Sigvaldi qvez eigi muna. Konúngr segir honum nú. Sigvaldi qvað avl annan mann, eða hvat muntu tilleggja, at ek efna mína heitstreingíng. Konúngr qvez ætla, þá er Sigvaldi er búinn, at hann muni tilleggja tuttugu skip. Sigvaldi segir: þat er gott tillag einum bónda, enn ecki er þetta konúnglikt. Þá mælti Sveinn konúngr, ok varð nöckut brúnölfr [1]): hversu mikils beiðiz þú? Sigvaldi segir: skjótt er þat, sextýgi stórskipa, enn ek mun fá í staðinn eigi færi, þó at smæri sè, þvíat ósýnt er, at avll komi aptr.

[1]) reiðngligr, J.

Þá mælti konúngr: búin skolu avll skipin þá er þú ert búinn. Þá er vel viðorðit, segir Sigvaldi, ok end þetta vel, því at nú skal þegar fara er lokit er veizlunni. Þá varð konúngr hljóðr, ok mælti: vân bráðara efna skal þetta, enn þó rèz þetta skjótara enn ek ætlaða. Þá mælti Áztríðr kona Sigvalda: eigi er þess vân, at þèr sigriz á Hákoni jarli, ef hann frèttir fyrir, ef èr sigriz þó eigi, at hann viti aunga vân í. Nú skipa þeir þegar til ferðarinnar þar at veizlunni. Tóva dóttir Haraldz jarls mælti við Sigurð bónda sinn: þess vil ek beiða þik, at þú fylgir sem bezt Búa bróður [þínum[1]], því at hann hefir mart vel til mín gert, enn ek mun þat í litlu sýna. Hèr eru menn tveir, Búi! er ek vil gefa þèr, annarr heitir Hávarðr höggvandi, enn annarr Áslákr hólmskalli. Búi þiggr mennina, ok biðr hana hafa þavck fyrir. Búi gefr þegar Áslák Vagni frænda sínum. Nú slítr boðit, ok búaz Jómsvíkíngar þegar af veizlunni, ok eptir þat fara þeir ok hafa hundrað stórskipa. Þeim gaf vel byr ok taka Vík í Noregi. Þeir koma síð um aptan til bœjarins í Túnsbergi á úvart. Sá maðr hèt Geirmundr[2]) hvíti lendr maðr, er bœinn varðveitti; ok er herrinn kom í bœinn, þá tóku þeir náliga allan bæinn upp, drápu mart manna, ok ræntu orófi feár. Þeir vöknuðu ei við góðan draum. Geirmundr vaknar ok þeir

[1]) *gizkat;* þíns, *R.* [2]) Avgmundr, *A*, *F.*

er sváfu í herberginu næst honum, þeir hlaupa upp í lopt þat, er þeir þóttuz leingzt mega verjazt. Þá drápu Jómsvíkíngar at loptinu, ok havggva loptit í ákafa. Sèr Geirmundr at þeir munu þar litla hríð fá variz, tekr hann þat ráð, at hann hleypr ofan or loptinu á strætið, ok kemr standandi niðr. Vagn varð nær staddr ok höggr þegar til hans, ok tók af höndina, ok fylgði gullhríngr. Geirmundr kemz við þetta til skógar. Hann fór um merkr sex dægr, síðan kemr hann til bygða, ok leitar norðr á slíkt er hann má nótt ok dag. Hann spyrr hvar Hákon jarl er á veizlu á bœ þeim er á Skugga heitir með hundrað manna. Geirmundr kom síð um aptan, ok sat jarl við dryckju. Geirmundr geck fyrir hann oc qvaddi hann; jarl spyrr hverr hann væri, enn hann sagði. Jarl spyrr tíðenda. Geirmundr segir: lítil tíðendi eru enn, enn geraz mætti þetta at tíðendum. Hvat þá? segir jarl. Geirmundr mælti: herr er kominn í landit austr í Vík, ok fara með styrjöld mikilli ok ófriði. Þá mælti jarl: veit ek at þú munt eigi segja hersögu nema savnn sè, eða hverr ræðr fyrir her þessum? Geirmundr mælti: Sigvaldi heitir sá er fyrir ræðr, ok heyrða ek nefnda Búa ok Vagn, ok hefi ek þess nöcqverjar minjar, ok bregðr upp hendinni, ok sýnir honum stúfinn. Jarl mælti: illa ertu leikinn ok sárliga, eða vissir þú hverr þèr veitti þetta sár? Geirmundr mælti: rèð ek at líkendum, því at þeir

mæltu þat, þá er sá tók upp hrínginn er fylgði hendinni: fènaði þèr nú, Vagn! sögðu þeir, enn mèr þótti sem herrinn hèti Jómsvíkíngar. Jarl mælti: sannfróðr muntu um þetta, enda munda ek þessa sízt kjósa.

*Liðsafnaðr.*

14. Jarl ferr þegar af veizlunni, ok stefnir ofan til Raumsdals, hann gerir menn alla vega frá sèr, ok lætr heravrvar uppskera, hann sendi ok menn norðr í Þrándheim til Sveins sonar síns, að hann safni liði um Þrándheim. Eiríkr jarl ferr norðr til Naumudals, ok svâ hit ytra norðan um Norðmæri ok um eyjar; skyldi liðit saman koma í ey þeirri er Havð heitir. Erlíngr son jarls fór um Rogaland, Hákon jarl sjálfr um Sunnmæri ok Raumsdal. Þeir koma nú saman herinum avllum undir eyna Havð, ok á vâg þann er Hjavrúngavâgr heitir, ok hafa þeir aukin þrjú hundruð skipa. Nú ráða þeir ráðum sínum. Nú er at segja frá Jómsvíkíngum, at þeir fara sunnan með landi, ok flýr undan þeim allir þeir er því koma við, ok þó drepa þeir fjölda fólks ok höggva stór strandhavgg. Nú sigla þeir norðr fyrir Staði, ok leggja at Hereyjom, ok var þá enn ecki spurt til jarls. Þeir leggjaz þar með allan flotann; þeir þickjaz þá þurfa strandhavggva. Vagn ferr þá með skeið sína til eyjar er Höð heitir. Þeir finna þar mann, ok rekr fyrir sèr þrjár

kýr ok geitr tólf. Vagn spurði hann at nafni. Hann qvez Úlfr heita. Þá mælti Vagn: rekið ofan fèit til strandar! Hverr er sjá maðr? segir Úlfr; hann sagði. Úlfr mælti: svâ þætti mèr, ef þèr erut Jómsvíkíngar, sem vera mundi stærri slátra efni, ok eigi allfjarri komin. Vagn segir: seg þú oss, ef þú veizt nöcqut til jarls, ok muntu undan koma bæði kúm þínum ok geitum. Úlfr mælti: hèr lá hann í gær qveld einskipa fyrir innan eyna á Hjörúngavâgi. Þá segir Vagn: þá skaltu fara með oss, ok segja oss leið. Nú geingr hann á skip með Vagni, ok snúa þeir þegar til Hereyja ok sumt liðit. Búaz þeir nú Jómsvíkíngar sem til bardaga, þótt Úlfr tæki auðvelliga. Nú grunar Úlfr at þeim muni þickja fleiri skipin, fleygir sèr nú utan borz ok til sunz, enn Vagn grípr snæris spjót, ok keyrir á honum miðjum, ok lætr Úlfr þar líf sitt. Þeir Jómsvíkíngar sjá nú at vâgrinn er allr þakiðr af skipum, ok fylkja nú þegar liði sínu. Leggr Sigvaldi framm í miðri fylkíng, ok Þorkell bróðir hans á aðra hönd honum; Búi ok Sigurðr bróðir hans í fylkíngar arm enn nyrðra, enn Vagn Ákason ok Björn enn bretzki í enn syðra. Hjörúngavâgr er svâ háttaðr, at sker liggr í miðjum vâginum, enn ey fyrir norðan er Primsignd heitir, enn Havrund liggr fyrir sunnan. Nú sjá jarlar hvar Jómsvíkíngar eru komnir, ok nú skipa þeir sínu liði ímóti. Þeir ætla Svein jarl Hákonarson móti Sigvalda, ok Guðbrand af

Davlum, Styrkar af Gymſum; móti Þorkatli bróður hans Yrjarskeggi, annarr Sigurðr steiklíngr af Hálogalandi, [þriði [1]] Þórir hjörtr; í móti Búa Þorkell miðlángr, Hallzsteinn kerlíngr, Þorkell leira; móti Sigurði kápu þeir feðgar Arnmóðr ok Árni ok Fiðr; móti Vagni Eiríkr jarl Hákonarson, Erlíngr af Skugga, Geirmunðr hvíti; móti Birni [hinum] brezka Einarr litli, Hávarðr af Flyðrunesi. Enn Hákon jarl skal leika lauss ok styðja allar fylkíngar. Fjórir voru íslenzkir menn með þeim feðgum: Skáldmeyjar-Einar [2]) skáld jarls. Hann hljóp þá upp á bryggjuna, ok mælti: til Sigvalda skal ek; jarl sá tímir aungu, ok þá qvað hann:

Sækjum jarl þannz auka
úlfs verð þorir sverðum,
hlavðum vèr borð á barða
baug-skjöldum Sigvalda;
drepr eigi svâ sveigir
sárlinnz, er gram finnum,
(ravnd berum út á andra
Endils) við mèr hendi.

Nú finnr jarl at Einarr vill í brutt, ok biðr at hann komi til tals við hann; síðan tekr jarl skálar góðar gervar af brendu silfri ok gyldar allar, ok fylgðu tvö met, annat af gulli, enn annat af silfri; þar var á líkneskja mannz, ok hètu þat hlutar, ok fylgði sú náttúra, at þá er jarl lagði þá í skálirnar, ok qvað á hvârt skyldi merkja,

[1]) bæta við *F*, *J*. [2]) Skjaldmeyjar-Einar, *A*, *F*, *J*.

ok ef sá kom upp er hann vildi, þá [breylti [1]] sá í skálinni, svâ at glamm varð af. Jarl gaf Einari skálirnar, ok varð hann glaðr við, ok síðan kallaðr Einarr skálaglamm. Annar hèt Vígfúss son Vígaglúms. Þórðr hèt enn þriði, er avrfhavnd [var kallaðr]. Fjórði Þorleifr skýma [2]), son Þorkels or Dýrafirði; hann fèck sèr kylfu í skógi eða hálf ró telði [3]), ok svíðr í eldi, ok hefir í hendi. Hann fór á skip Eiríks jarls. Jarl mælti: hvat skal þèr klumba sú in mickla? Þorleifr qvað:

Hefi ek í hendi
til havfuðs gerfa
beinbrot Búa,
bavl Sigvalda,
vá víkínga,
vavrn Hákonar;
sjá skal verða,
ef vèr lifum,
eiki-kylfa
óþavrf Davnum.

Vígfúss var ok á skipi Eiríks jarls, hann tók spjót sitt ok hvatti; [ok áðr þeir berðiz, qvað hann vísu þessa [4]]:

Oss er leikr enn lauka
liggr heima vinr feimo,
þrýngr [5]) at Viðris veðri [6])
vandar [7]) goð [8]), fyrir havndum;
loð [9]) qveð ek hæla bosa [10]),

[1]) *A*; bravlti, *J*; breytri, *R*. [2]) skúma, *A*, *F*, *J*. [3]) hálf rót elldi þat, *A*, *máskè rèttara* hálfró, telldi þat; eða rotelldi, *J*. [4]) *bætir við F*. [5]) þraungr, *F*, *J*. [6]) varð, *J*. [7]) vöndr, *J*. [8]) góðr, *F*, *J*. [9]) hlijss, *F*; hlys, *J*. [10]) hel ab ossa. *F*; hæla bossa, *J*.

hann vættir sèr annars
víss[1]) und vavrmum bægi,
vèr skreytom spjör neyta.

Nú síga saman fylkíngar, ok hefz þar ákavf orrosta, ok var hvârigum sóknar at frýja. Er svâ sagt þar sem þeir Sigvaldi eigaz við ok Hákon jarl ok Sveinn jarl, at þar standi við, ok láti hvârigir undan síga sín skip. Jafnleikit var ok með þeim Eiríki jarli ok Vagni. Enn þar sem Búi sækir framm ok þeir bræðr, varð þeim Búi stórhavggr, ok þickir betra firr honum, láta þeir síga undan skipin, rær Búi á bug mikinn á fylkíng jarla, var þar óp mikit ok ákafr lúðragángr. Nú sèr þetta Eiríkr jarl, leggr hann nú til þángat, ok leggr at Búa, varð þar hin grimmazta atlaga, getr jarl rètta fylkíng sína ok ecki betr; heyra þeir óp mikit til þeirra Vagns, rœr jarl þá þángat, hefir Vagn þá gert mikit fletroð[2]), hafði geingit ígegnum fylkíng jarls, ok leystan allan þann arminn; ok er Eiríkr jarl sèr þetta, þá leggr hann járnbarðann síbyrt við skeiðna Vagns, ok berjaz nú af nýjö; ok er þat alsagt, at ei hafi ein sókn röskligri verit; ok í því bili hlaupa þeir Vagn ok Áslákr hólmskalli upp á barðann framm í, ok geingr með sínu borði hvârr, ok ryðjaz svâ um, at allt hravckr fyrir. Áslákr hefir beran skallann, ok þó at þeir höggvi í hans skalla, þá beit eigi heldr enn þeir hravckþi tálknskíði. Þá var veðr

[1]) vís, *J.* [2]) mikinn bug á liði hans, *F.*

gott ok heitt af skini, ok fóru margir menn af klæðum. Þeir Vagn ok Áslákr drepa nú margan mann. Nú [eggjar] Eiríkr jarl menn sína í ákafa, þá tekr Vígfúss Vígaglúmsson nefsteðja mikinn ok rekr í höfuð Ásláki, ok nefit söckr þegar á steðjanum, ok fellr Áslákr þegar ok lætr líf sitt; enn Vagn geingr með avðru borði, ok drepr menn í ákafa. Þorleifr skúma hleypr móti honum, ok lýstr til Vagns með eikikylfunni, þat havgg kom á hjálminn ok varð svâ mikit at hjálmrinn rifnaði, enn Vagn hallaðiz út atborðinu, oc skaut við Þorleifi sverði, enn stiklaði við þat út yfir borðit, ok á skeið sína, oc barðizt et snarpligzta. Eiríkr jarl leggr þá frá barðanum, því at hann var mjög svâ ruddr framan at siglu; þá hafði ok Hákon jarl lagt at landi avllum herinum, ok varð nú á hvíld nöckur á bardaganum, ok hittaz þeir feðgar allir samt. Hákon jarl mælti: þat þickjumz ek sjá, at á oss tekr at hallaz bardaginn, ok hugða ek til þess verst at berjaz við þessa menn, enda reyniz mèr at því; nú mun oss eigi hlýða svâ búit, nema vèr takim nackvat gott ráð, mun ek gánga á land upp, enn èr seð eptir með herinum á meðan, ef þeir leggja at. Nú ferr jarl upp í eyna Primsignd, ok geingr í skóg á brutt, ok legz nið á knè ok biðz fyrir, ok horfir í norðr. Þar kemr bœnar orðum hans, at hann skorar á fulltrúa sinn Þorgerði havlgabrúði; enn hon vill eigi heyra bœn hans, ok er hon reið. Hann býðr henni mart í

blótskap, enn hon vill ecki þiggja, ok þickir honum úvænt um. Þar kemr at han býðr henni mannblót, enn hon vill eigi þiggja. Hann býðr henni um síðir son sinn er Erlíngr hèt sjö vetra gamall, ok hon þiggr hann; fær jarl sveininn nú í hendr Skopta þræli sínum, ok ferr hann ok veitir sveininum skaða. Eptir þat ferr jarl aptr til skipa sinna, ok eggjar nú lið sitt af nýjö: ok veit ek nú víst at oss mun sigrs auðit, ok gángit nú framm at betr, því at ek hefi heitit til sigrs oss á þær báðar systr Þorgerði ok Irpu. Nú geingr jarl á skip sitt, ok búaz um af nýjö, ok síðan greiða þeir atróðrinn, ok tekz þar nú af nýjö enn grimmazti bardagi; ok þvínæst tekr veðrit at þyckna í norðr, ok dregr yfir skjótt, líðr ok á daginn; þvínæst flugu eldíngar ok reiðar, ok því næst gerir á èl mikit; þeir Jómsvíkíngar áttu at vega í gegn veðrinu; þetta èl var með svâ micklum býsnum, at menn máttu varla standaz, enn menn höfðu áðr farit af klæðunum fyrir hita sakir, enn nú tók at kólna, sækja þó bardagann frýjolaust, ok þó at þeir Jómsvíkíngar kastaði grjóti eða vâpnum, eða skyti spjótum, þá bar veðrit þat aptr á þá allt, ok þar með vâpnagángr sinna óvina. Hávarðr havggvandi sá fyrstr Havlgabrúði í liði Hákonar jarls, ok margir sá [þat[1]] ófreskir menn; ok þá er lítt aðlinaði èlinö, sá þeir at avr fló af

[1]) *bætir inn í A*; ok marger aðrer sjá þetta, þótt ei sè ófresker, *J*.

hverjum fíngri flagðinö, ok varð maðr fyrir hverri, ok [sjá] þeir Sigvaldi, ok hann mælti: eigi þicki mèr þá sem vèr berimz við menn eina, enn þó er nauðsyn at hverr dugi sem má. Þá er nöckuð linaði èlino, heitr jarl í annat sinn á Þorgerði, ok qvez nú hafa mikit tilunnit. Nú tekr í annat sinn at ravckva at èlino, ok er nú mycklo meira ok harðara enn fyrr; ok þegar í avndverðu èlino, þá sèr Hávarðr höggvandi, at tvær konur eru komnar á skip jarls, ok hafa eitt atferli. Sigvaldi mælti þá: nú vil ek bruttflýja, ok geri svâ allir míuir menn; ecki streingðu vèr þess heit at berjaz við travll, er nú ok því verra enn áðan, at nú eru tvav flavgð. Nú leysir Sigvaldi skip sitt, ok kallar á þá Búa ok Vagn, at þeir skyli flýja. Vagn mælti at hann skyldi fara manna ármaztr. Ok í þessu svarfi hleypr Þorkell miðlángr af skipi sínu á skip Búa, ok havggr þegar til hans, ok berr þetta allt at bráðum, havggr af honum vavrina ok havkuna alla frá niðr ígegnum, ok fjúka tennrnar or höfðinu. Þá mælti Búi: vesna mun nú hinni davnsku þickja at kyssa oss í Borgundarhólmi. Búi höggr þá ímót til Þorkels, enn hallt[1]) var á skipinu, ok fellr hann á skjaldrimina, er hann vildi forða sèr, ok kom höggit á Þorkel miðjan, ok tók í sundr í tvâ hluti við skipsborðinu. Ok þegar eptir þat tók Búi gullkistur sínar, ok kallaði hátt: fyrir borð allir Búaliðar! ok hleypr

[1]) hált, *J.*

síðan fyrir borð með kisturnar. Þá dregz Sigvaldi út frá flotanum; þá qvað Vagn vísu þessa:

Sigvaldi hefir setta
sjálfa oss und kylfu,
enn fárhugaðr flæði [1])
fór heim til Danmarkar;
hyggr í faðm at falla
fljótt aurr [2]) konu sinni,
enn fyrir borð et breiða
Búi geck með hugrecki.

Sigvalda hafði orðit kallt ok hleypr hann til ára ok rær, enn annarr stýrði. Þá fleygir Vagn spjótinu at Sigvalda, enn sá varð fyrir er stýrði, ok nísti þann út við borðit. Þorkell háfi sneri þegar í brött, er Sigvaldi var farinn, ok svâ Sigurðr kápa, þegar er Búi var fyrir borð geinginn, ok þickiz hvârtveggi efnt hafa sína heitstreingíng, þeir hafa fjögur skip ok tuttugu, fara heim til Danmerkr. Í því hljóp at Sigmundr Brestisson, enn mesti kappi, ok sótti Búa, ok lauk svâ at Sigmundr hjó af Búa báðar hendr í úlflið. Þá stack Búi handar stúfunum í hrínga á kistunum, ok kallar hátt: fyrir borð allir Búaliðar! Nú er at segja frá Vagni, at hann tekr nú af nýjö dreingiliga vörn ok allir hans menn, geingu þeir þá ok allir á skeiðina er vâpnfærir voru. Enn Eiríkr jarl ok margir aðrir höfðingjar lavgðu þá at skeiðinni, ok varð þar þá en snarpazta orrosta; kom þá at því sem mælt er,

[1]) fá hnóðigr flýði, *J.* [2]) und, *A*; vin, *F*; nú, *J.*

at ecki má við marginum; fèllu þá svâ gersamliga menn Vagns, at þeir urðu eigi eptir meirr enn átta tígir manna, vavrðu þeir þá lyptíngina á skeiðinni, gerði þá svâ myrkt af nótt, at eigi var vígljóst. Lætr Eiríkr jarl þá taka reiðan allan frá skipino ok frá öllum skipum, ok róa við þat frá. Lètu nú halda vavrð yfir skipunum um nóttina, enn skjóta yfir sik skjöldum, ok eiga at hrósa sigri micklum. Síðan vega [þeir [1]] í skálum haglkornin, at reyna ágæti þeirra Þorgerðar ok Irpu, ok vâ eyri eitt kornit. Nú talaz þeir Vagn ok Björn enn bretzki við, hvat til ráða skal taka: annat tveggja, segir Vagn, að bíða hèr dags, ok láta handtaka oss, ella leita til landz, ok göra þeim nockut íllt, ok forða oss síðan. Þá taka þeir siglutrèit ok rána, ok flytjaz þará áttatýgir manna í myrkrinu. Þeir komuz í skerit ok voru þá raun mjög þrekaðir flestir af sárum ok kulda, var þá ok ecki fært leingra; lètuz þar tíu menn um nóttina. Enn er lýsti um morguninn, fóru jarls menn at binda sár sín, þá heyrðu þeir at streingr gall, ok fló avr af, ok varð þar fyrir Guðbrandr frændi jarls, ok þarf hann eigi fleira. Þeir róa nú til ok kanna skipin, ok á skipi Búa finna þeir Hávarð havggvanda íendan [2]), ok voru undan honum báðir fœtr. Hann mælti þá:

---

[1]) *F.* [2]) einn mann, þann er sendr var ok litlo meirr, *A*; einn mann, þann er líf hafði, *F*; eirn mann lifanda enn ei fleiri, *J*.

hverr lèt sveina sígaz áðan fyrir skoti mínu? Þeir segja. Hávarðr mælti: minna varð þá happ mitt enn ek vilda, jarli hafða ek ætlat. Þeir drápu þá Hávarð. Eiríkr jarl geck þar hjá sem Þorleifr skúma stóð, ok spurði: hví ertu þannveg yfirlitz sem [þú[1]] sèr at bana kominn? Hann segir: eigi munda ek vita nema blóðrefillinn hans Vagns kœmi við mig líttað í gœr, er ek laust hann kylfuhöggit. Jarl mælti: illa hefir þinn faðir þá haldit [út álandinu[2]), ef þú skalt nú deyja[3]]. Þetta heyrði Einar skálaglamm ok qvað vísu:

Þat qvað jarl at æri[4])
unnvigs[5]) fyrir haf sunnan,
þá er á seima-særi
sár-elda-spor[6]) váru:
avllúngis hefir illa,
ey-baugs ef skal deyja
(vèr hyggjum þat) viggja
valdr þinn faðir haldit.

Þá deyr Þorleifr.

*Reyndir Jómsvíkingar.*

15. Nú sjá þeir hvar menn eru margir í skerinu, biðr jarl nú fara eptir þeim ok taka havndum, róa nú til þeirra, ok vörðuz þeir þá ecki, voru þar þá fluttir til landz sjötýgir manna;

---

[1]) sú, *R.* [2]) Íslandi, *J.* [3]) *bætir við A*; illri heill hefr þú farit af þíno landi, ef *o. s. f. F.* [4]) ærri, *A*; væri, *J.* [5]) brennigs, *J.* [6]) spjör, *A.*; spör, *J.*

lèt jarl setja þá alla í einn streing. Þá voru skip þeirra flutt avll at landi ok skipt avllum feárhlutum þeirra. Síðan brjóta jarlsmenn upp vistir sínar ok snæða, ok gambra allmikit; ok er þeir ero mettir, gánga þeir þángat sem bandíngjarnir voru, ok var Þorkell leira ætlaðr til at havggva þá Jómsvíkínga. Þá voru leiddir þrír menn or streinginum, þeir voru sárir mjög, enn þrælar voru settir til at varðveita þá ok snúa vönd í hárið. Þorkell leira geingr nú at havggva havfuð af þeim, ok mælti síðan: finni þèr nöcqut at mèr hafi brugðit við þessa sýslu? því at þat mæla margir, ef maðr höggr þrjá menn. Eiríkr jarl segir: ecki sjám vèr þèr við þetta bregða, enn þó sýniz oss þèr mjög brugðit. Þá var leiddr enn fjórði maðr ór streinginum, ok snúinn vöndr í hár, sá var sárr mjög. Þorkell mælti: hversu hyggr þú til at deyja? Gott hygg ek til bana míns, þat mun mèr verða sem mínum föðr. Þorkell segir, hvat þat væri. Hann segir: högg þú! dó hann. Þá havggr Þorkell þann. Þá var tilleiddr enn fimti, ok spyrr Þorkell, hversu hann hygði til at deyja. Hann segir: eigi man ek þá lavg Jómsvíkínga, ef ek qvíði við bana, eða mæla ek æðruorð, eitt sinn skal hverr deyja. Höggr Þorkell þann. Nú ætla þeir at spyrja hvern þeirra, áðr þeir sè drepnir, ok reyna svâ liðit, hvârt svâ sè fræknt, sem sagt er, ok þickir þá reynt, ef eingi mælir æðruorð. Þá var tilleiddr enn sjötti maðr, ok snúinn vöndr í hár.

þorkell segir með sama hætti. Honum qvez gott þickja at deyja við góðan orðztír, enn þú, þorkell! munt lifa við skavmm. Höggr hann þenna. þá er þángat leiddr enn sjöundi, ok spyrr þorkell eptir vanda. Ek hygg allgott til at deyja, enn þú högg mig skjótt! ek held á týgilkníft, þvíat vèr höfum átt opt um at ræða Jómsvíkíngar, hvårt maðr vissi nöcqvat, ef hann væri allskjótt höggvinn, þá er höfuðit væri af; enn þat mun til merkis, at ek mun vísa framm knífinum, ef ek veit nöckuð, ella mun hann niðrfalla. þorkell höggr þann, ok fauk af havfuðit, enn knífrinn fèll niðr. þá var tekinn enn átti maðr, ok spurði þorkell eptir vanda. Hann qvez gott til hyggja; ok þá er honum þótti sem skamt mundi at bíða: hrútr! segir hann. þorkell stavðvaði havggit, ok spurði, hví honum yrði þetta á munni. Hann segir: þó mon eigi ofskipat til ánna þeirra, er þèr nefndut í gær jarlsmenn, þá er þèr fenguð áverka. Manna armaztr! segir þorkell, ok lætr skjalla honum höggit. þá var leystr enn níundi maðr. þorkell segir eptir vanda. Hann segir: gott hygg ek til bana míns sem allir vårir fèlagar, enn ek vil eigi láta mig havggva sem sauð, heldr vil ek sitja fyrir, enn þú havgg framan í andlit mèr, ok hygg at vandliga, hvårt ek blavskra nöckut, þvíat vèr höfum þar opt átt um at ræða. Nú er svå gört, at hann sitr fyrir, enn þorkell geingr at framan, ok havggr í andlit honum, ok blavskrar hann

eigi, nema signsaman augu, þá er dauðinn fór á. Þá var tilleiddr enn tíundi maðr, ok spyrr Þorkell, enn hann segir: þat vil ek, at þú bíðir meðan ek bjarga brókum mínum. Þat skal veita þèr, segir Þorkell. Ok er hann hafði þat gört, mælti hann: mart verðr annan veg enn maðrinn ætlar: ek hugða at koma í reckju hjá Þóru Skagadóttur konu jarls, ok hristi fèlagann, kippir upp síðan brókunum. Hákon jarl mælti: havgg þenna sem tíðaz; sjá hefir leingi íllt haft í hug; havggr Þorkell þann. Þá var leiddr til maðr úngr, sá hefir hár mikit ok gult sem silki. Þorkell spyrr eptir vanda. Hann segir: lifat hefi ek nú et fegrsta, þeir hafa nú látið líf fyrir skavmmu, er mèr þickir ecki ívert at lifa, enn eigi vil ek at mik leiði þrælar til höggs, heldr sá maðr, er eigi er verri dreingr enn þú, ok mun sá óvandfeinginn, ok haldi hárinö fram frá höfðino ok hnycki havíðinu, at hárit verði eigi blóðuct. Hirðmaðr einn geingr til ok tekr hárit, ok vefr um hönd sèr, enn Þorkell höggr með sverðinu, ok í því hnyckir hann havíðinu, ok hlýtr sá havggit er hjelt, ok tók af hendr báðar í avlboga bótum. Hinn sprettr upp ok mælti: hverr á hendr í hári mèr? Hákon jarl mælti: stór ófarar geraz nú, ok drepi þenna sem skjótast, ok svâ aðra þá sem eptir eru, því at mycklu eru menn þessir verri viðfángs, enn vèr fáim við þeim sèð. Eiríkr jarl segir: vita viljum vèr nú âðr, hverir þeir sè, eða hvat heitir

þú enn úngi maðr? Hann segir: Svein kalla mig. Jarl spyrr, hvers son ertu? Hann segir: ek em kenníngarson Búa. Jarl spyrr: hve gamall maðr ertu? Hann segir: ef ek lið yfir þenna, þá em ek átján vetra. Eiríkr jarl mælti: nú skaltu yfir liða; tekr jarl hann þá til sín. Hákon jarl mælti þá: eigi veit ek nú, ef sjá skal undan gánga, er oss hefir slíka skavmm gört, enn þó muntu ráða verða, ok havggvi enn mennina. Þá var maðr leystr or streinginum, ok bráz streingrinn á fótinn, svâ at hann var fastr. Sjá var mikill ok úngr ok enn fráligzti. Þorkell segir: hve gott hann hygði til at deyja. Gott, segir hann, ef ek gæta efnt aðra [1]) heitstreingíng mína. Eiríkr jarl mælti: hvert er nafn þitt? Ek heiti Vagn, segir hann. Jarl spurði, hvers son hann væri. Hann qvez vera Ákason. Jarl mælti: hvers streingðir þú heit, ef þèr þætti þá gott at deyja? Þess, segir hann, at ek skylda koma í reckjö Íngibjargar dóttur Þorkels leiro án frænda ráði, enn drepa sjálfan hann, ef ek kæma í Noreg. Ek skal þvírenna, segir Þorkell, ganir at honum ok havggr til hans tveim havndum, enn Björn enn brezki spyrndi til Vagns fæti sínum, svâ at hann fèll um. Þorkell havggr yfir Vagn ok steypiz við, enn sverðit varð honum laust, ok kom á streinginn, ok varð Vagn lauss, spratt hann þá upp ok greip sverðit, ok

[1]) áðr, J.

hjó Þorkel leiru bana havgg. Þá mælti Vagn: nü hefi ek enda hálfa heitstreingíng mína, ok uni ek nú við sýnu betr. Hákon jarl mælti þá: láti hann eigi lausan, ok drepi hann sem tíðaz! Eiríkr jarl mælti: eigi skal hann heldr drepa enn mik. Hákon jarl segir: eigi þurfum vèr nú til at hlutaz, er þú vill einn ráða. Eiríkr jarl mælti: gott er mannkaup í Vagni, ok sýniz mèr keypt vel, at hann sè í stað Þorkels leiru. Tekr Eiríkr jarl nú við Vagni. Þá mælti Vagn: því at eins þicki mèr betra at lifa at þeim sè grið gefin avllum vârum fèlavgum, ella farim vèr eina favr allir. Eiríkr jarl segir: ek mun nú hafa orð við þá, ok fyrtek ek eigi at göra þetta. Þá geingr Eiríkr jarl at Birni enum brezka, ok spurði hann at nafni. Hann sagði. Jarl mælti: ertu sá Björn er bazt sóttir manninn í havll Sveins konúngs, eða hvat áttir þú at oss sækja, gamall maðr ok hvítr fyrir hæru, er þat sannaz at segja, at öll strá vildu oss stánga, eða viltu þiggja líf at oss? Björn segir: þiggja vil eg, ef Vagn fóstri minn er undan þeginn ok allir þeir er eptir lifa. Þat skal nú veita þèr, ef ek má ráða. Eiríkr jarl biðr nú favður sinn, at þeim sè nú grið gefin Jómsvíkíngum, sem eptir eru. Hákon jarl bað hann ráða. Voru þeir nú leystir ok trygðir veittar.

*Vagn ferr í Vík austr.*

16. Eptir þat ferr Vagn með ráði Eiríks jarls austr í Vík, ok mælir at hann skyli þannig göra brúðkaup til Íngibjargar, sem hann vill. Þar er Vagn um vetrinn, enn um vârit ferr hann suðr til Danmerkr heim á Fjón til búa sinna, ok rèð þar leingi fyrir; ok er mart stórmenni frá honum komit, ok frá þeim Íngibjörgu, ok þótti hon kvenskörúngr mikill. En Björn fór heim til Bretlandz ok rèð þar fyrir meðan hann lifði; ok þótti enn besti karlmaðr. Enn er Sigvaldi kom heim til Danmerkr, fór hann á Sjálavnd til eigna sinna, ok var Áztríðr þar fyrir kona hans. Áztríðr lætr göra honum kerlaug ok strauk honum sjálf, ok mælti: verit get ek nockura þá hafa í Jómsvíkínga bardaga, er rauf-óttara belg mun þaðan haft hafa, ok þicki mèr sjá bezt tilfallinn at hirða í hveiti. Hann segir: þat mætti enn verða minnar æfi, at þú ættir eigi þessu at hrósa, ok lát þèr þá líka. Sigvaldi rèð fyrir Sjálavndum, ok þótti vitr maðr, ok kemr hann við fleiri savgur. Enn Þorkell enn háfi þótti enn vitrazti maðr, ok reyndiz þat opt síðan. Sigurðr kápa tók við favdurleifð sinni í Borgundarhólmi, ok þótti nytmenni mikit, ok er mikill áttbogi kominn frá þeim Tófu. Enn þat er margra manna savgn, at Búi hafi orðit at ormi ok lagz á gull sitt, er þat til þess haft, at menn hafa sèð orm á Hjavrúngavâgi; kann þat ok

vera at nóckur vând vættr hafi lagz á þat fè, ok sýniz þar síðan. Enn Hákon jarl rèð eigi leingi Noregi síðan, ok varð enn frægzti af sigri þessum. Kom þá í Noreg enn ágæti Ólafr konúngr Tryggvason; var þá tekinn af lífi Hákon jarl, eptir því sem segir í Konúnga savgum, enn Ólafr konúngr kristnaði þá allan Noreg. Munum vèr hèr lúka at segja frá Jómsvíkíngum.

---

# Eptirmáli.

Það er að segja um útgáfu sögu þessarar, að hún er prentuð eptir handriti Prófessors *R. K. Rasks*, er hann góðfúsliga hèr til lánat hefir; skrifaði hann þat sjálfr orðrètt eptir skinnbók Nr. 7 af handritunum í bókahirzlu konúngs í Stockhólmi. Stafasetníng og ritunarháttr er að öllu hinn sami sem hjá Rask; en geta má þess, at í litlu einu er afbrugðið frá skinnbókinni, sem er: að *av* er ávalt sett fyri *au*, hvar lesit er *ö*, og *au* fyri *av*, hvar lesit er *öi*; *j* brúkast alstaðar fyri *i*, hvar það er samhljóðandi; *u* brúkast ávalt sem hljóðstafr, og *v* sem samhljóðandi; þar sem stendr -*nnd*- og -*lld*-, og vera skal -*nd*- og -*ld*-, er öðrum bókstafnum slept. Að þessu undanskildu er stafasetníng öll hin sama og brúkuð er í skinnbókinni; en þesskonar breytíngar þyckja harðla nauðsynligar fyri þá er lesa, einkum útlenda, er ógjörla vita, hversu lesa skal.

Hvað sjálft handritið snertir, ber það með sèr öll merki, að hèr sè hin elzta meðferð eðr skrásetníng á sögunni, og líkliga samin á 12tu öld eptir frásögn Islendínga, er voru með Hákoni jarli í Jómsvíkínga bardaga, og síðan fóru út til Islands; og má þar til nefna Vígfús Vígaglúmsson, Þórð örfhönd og Einar skálaglamm. En auðsjáanligt er það, að Stockhólmsbókin er skrifuð laungu seinna eptir eldra handriti, og hefir sá er ritaði sumstaðar lesið rángt úr böndunum.

Við þetta handrit eru, hvar þurfa þótti, samanborin önnur handrit af Jómsvíkínga sögu mest úr fornfræðasafni Arna Magnússonar. Þykir af samburðinum mega ráða, að öllum þessum handritum megi skipta í 4 flocka, og er hvörr þeirra hinum nockuð frábrugðinn og ólíkr; nl.

1. Rasks afskrift af Stockhólms bókinni, merkt *R.*
2. Kálfskinnsbók Nr. 291 í 4blf., merkt *A*, er líkast til skrifuð á 14du öld; vantar aptan við söguna; frásagan er hèrí viða fjölorðari enn í *R*, en hvar orðbragðið er fábreytiligt, ber þeim að mestu saman; og má þaraf ráða, að þessi frásögn Jómsvíkínga sögu sè hin elzta nærst *R.*

3. Jómsvíkinga saga í Olafs sögu Tryggvasonar, sem prentuð er í Skálholti 1689 eptir Flateyarbók, merkt *F*. Hèr til heyra Nr. 14 ok 15 í arkarformi. Þessi flockr er hinum öðrum (A) að mestu samfara, en víða orðríkari, og málfæri ei svo forneskjuligt; þykir því sem það sè nýrri meðferð á sögunni, én þó nærsta söguliga frágengið.

4. Skinnbók Nr. 510 í 4blf., merkt *J*, líkliga skrifuð á 15du öld. Hèr til heyra: Nr. 13 í arkarformi með hendi Sr. Jóns í Villíngaholti; Nr. 288, 289, 290, 292, 293 í 4blf., og Nr. 346 í arkarformi af handritum Súhms í bókahirzlu konúngsins. Hèr með má og telja Jómsvíkinga sögu, útgefna af Hammarsköld í Stockhólmi 1815, er líkist mest Nr. 288. Þessar afskriftir eru í flestu samhljóða við þriðja flockinn, en sumstaðar er frásagan aukin, og vísum viðbætt, og orðbragðið nýligra; má því ætla, að þetta sè hin ýngsta meðferð á sögunni; er hún og að mörgu hin fjölhæfasta.

Þar allir þessir afskriftaflockar eru svo frábrugðnir hver öðrum, að sjaldan segir frá með sömu orðum, þótti ógjörligt að færa til allan orðamun er mátti, og eru því orðabreitíngar einasta settar þar, er aðalritsins orðatiltæki sýndist rángt eðr óljóst; og má það meðal annars til þessa máls færa, að mismunr sá, er finnst í áðrtèðum handritum, stafar af því, að fleiri hafa verið höfundar sögunnar, og einn ávalt bætt því við, er hann vissi betr ok söguligar frá að segja.

Geta verðr enn þess, að í Stockhólmsbókinni samt *A*, *J* og fleirum byrjar Jómsvíkinga sögu með að segja frá Danakonúngum; en þar þetta ei þótti eiga við Jómsvíkinga sögu, er frásagan hèr byrjuð á Tóka og sonum hans.

Um sögu þessa má lesa nákvæmari skírslu í Prófessors P. E. Müllers Sögubiblíótheki, 3 B. bl. 38 - 115.

Við prentanina eru prófarkirnar leidrèttar af Dr. Philos. G. Brynjúlfssyni, Cand. Theol. Þ. Guðmundssyni og Löitenanti K. K. Rafni; líka hefir og Prófessor Rask með velvilja studt að þessu fyritæki.